*Guðrún:*

67. Ón er þess engi á,
ek vil því níta;
sleit ek þá sáttir,
er váru sakar minni;
afkár ek áðr þótta,
á mun nú gœða,
hræfða ek um hotvetna,
meðan Högni lifði.

68. Alin vit upp várum
í einu húsi,
lékum leik margan
ok í lundi óxum,
gœddi okkr Grímildr
gulli ok hálsmenjum;
bana mundu mér brœðra
bœta aldregi,
né vinna þess ekki,
at mér vel þikki.

69. Kostum drepr kvenna
karla ofríki,
í kné gengr hnefi,
ef kvistir þverra,
tré tekr at hníga,
ef höggr tág undan;
nú máttu einn, Atli!
öllu hér ráða."

70. Gnótt var grunnýðgi,
er gramr því trúði,
sýn var sveipvísi,
ef hann sín gæði;
kröpp var þá Guðrún,
kunni um hug mæla,
létt hon sér gerði,
lék hon tveim skjöldum.

71. Œxti hon öldrykkjur
at erfa brœðr sína,
samr lézk ok Atli
at sína görva.

72. Lokit því létu,
lagat var drykkju,
sú var samkunda
við svörfun ofmikla,
ströng var stórhuguð,
stríddi hon ætt Buðla,
vildi hon ver sínum
vinna ofrhefndir.

73. Lokkaði hon litla
ok lagði við stokki,
glúpnuðu grimmir
ok grétu þeygi,
fóru í faðm móður,
fréttu hvat þá skyldi.

*Guðrún:*

74. Spyrit lítt eptir,
spilla ætla ek báðum,
lyst várumk þess lengi
at lyfja ykr elli.

*sveinarnir:*

75. Blótt sem vilt börnum,
bannar þat manngi,
skömm mun ró reiði,
ef þú reynir gerva."
Brá þá barnœsku
brúðr in kappsvinna,
skiptisk skapliga,
skar hon á háls báða.

76. En frétti Atli,

hvert farnir væri
sveinar hans leika,
er hann sá þá hvergi.

*Guðrún:*

77. Yfir ráðumk ganga
Atla til segja;
dylja munk þik eigi,
dóttir Grímildar;
glaða mun þik minst, Atli!
ef þú gerva reynir,
vaktir vá mikla,
er þú vátt brœðr mína.

78. Svaf ek mjök sjaldan,
síðans þeir féllu;
hét ek þér hörðu,
hefi ek þik nú mintan.
Morgin mér sagðir,
man ek enn þann gerva;
nú er ok aptann,
átt þú slíkt at frétta.

79. Maga hefir þú þinna
mist, sem þú sízt skyldir;
hausa veizt þú þeirra
hafða at ölskálum,
drýgða ek þér svá drykkju,
dreyra blétt ek þeirra.

80. Tók ek þeirra hjörtu
ok á teini steiktak,
selda ek þér síðan,
sagðag at kálfs væri;
einn þú því ollir;
ekki réttu leifa,
tögtu tíðliga,
trúðir vel jöxlum.

81. Barna veiztu þinna,
bíðr sér fár verra,
hlut veld ek mínum,
hœlumk þó ekki.

*Atli:*

82. Grimm vartu, Guðrún!
er þú gera svá máttir,
barna þinna blóði
at blanda mér drykkju;
snýtt hefir þú sifjungum,
sem þú sízt skyldir,
mér lætr þú ok sjálfum
millum ills lítit.

*Guðrún:*

83. Vili mér enn væri
at vega þik sjálfan,
fátt er fullilla
farit við gram slíkan;
drýgt þú fyrr hafðir,
þat er menn dœmi vissut
til heimsku harðræðis
í heimi þessum.
Nú hefir þú enn aukit
þat er nú áðan frágum,
greipt glœp stóran;
gert hefir þú þitt erfi.

*Atli:*

84. Brend mundu á báli
ok barit grjóti áðr,
þá hefir þú árnat
þaztu æ beiðisk.

*Guðrún:*

85. Seg þér slíkar
sorgir ár morgin,

fríðra vil ek dauða
fara í ljós annat.“
86. Sátu samtýnis,
sendusk fárhugi,
hendusk heiptyrði,
hvártki sér undi.
Heipt óx Hniflungi,
hugði á stórræði,
gat fyr Guðrúnu,
at hann væri grimmr Atla.
87. Kómu í hug henni
Högna viðfarar,
taldi happ hánum,
ef hann hefnt ynni.
Veginn var þá Atli,
var þess skamt bíða,
sonr vá Högna
ok sjálf Guðrún.
88. Röskr tók at rœða,
raktisk or svefni,
kendi brátt benja,
bands kvað hann þörf önga:
„segit it sannasta,
hverr vá son Buðla;
em ek lítt leikinn,
lífs tel ek vón önga.“

*Guðrún:*

89. Dylja mun þik eigi
dóttir Grímildar,
látumk því valda,
er líðr þína æfi,
en sumu sonr Högna,
er þik sár mœða.

*Atli:*

90. Vaðit hefir þú at vígi,
þótt værit skaplikt,
ilt er vin véla,
þanns þér vel trúir,
beiðr fór ek heiman
at biðja þín, Guðrún!
91. Leyfð vartu ekkja,
létu stórráða,
var þá vanlygi,
er vér um reyndum;
fórtu heim hingat,
fylgði oss herr manna,
alt var ítarlikt
um órar ferðir.
92. Margs var alls sómi
manna tiginna,
naut váru œrin,
nutum af stórum,
þar var fjöld fjár,
féngu til margir.
93. Mund galt ek mœrri,
meiðma fjöld þiggja,
þræla þrjá tigu,
þýjar sjau góðar,
sœmd var at slíku,
silfr var þó meira.
94. Léztu þér alt þikkja
sem ekki væri,
meðan lönd þau lágu,
er mér leifði Buðli;
gróftu svá undir,
gerðit hlut þiggja,
sværu léztu þína

sitja opt grátna;
fann ek í hug heilum
hjóna vætr síðan.

*Guðrún:*

95. Lýgr þú nú, Atli!
þótt ek þat lítt rœkja,
heldr var ek hœg sjaldan,
hóstu þó stórum,
börðuzk ér brœðr ungir,
báruzk róg milli;
hálft gékk til heljar
or húsi þínu,
hroldi hotvetna,
þat er til hags skyldi.

96. Þrjú várum systkin,
þóttum óvægin,
fórum af landi,
fylgðum Sigurði;
skæva vér létum,
skipi hvert várt stýrði,
örkuðum at auðnu,
unz vér austr kvámum.

97. Konung drápum fyrstan,
kurum land þaðra,
hersar oss á hönd géngu,
hræzlu þat vissi;
vágum or skógi
þanns vildum sýknan,
settum þann sælan
er sér né áttið.

98. Dauðr varð inn húnski,
drap þá brátt kosti,
strangt var angr ungri,
ekkju nam hljóta;
kvöl þótti kvikri
at koma í hús Atla,
átti áðr kappi,
illr var sá missir.

99. Komta þú af því þingi,
er vér þat frægim,
at þú sök sóttir,
né slektir aðra;
vildir ávalt vægja
en vætki halda,
kyrt um því láta,
[er konungi sœmdit].

*Atli:*

100. Lýgr þú nú, Guðrún!
lítt mun við bœtask
hluti hvárigra,
höfum öll skarðan;
görðu nú, Guðrún!
af gœzku þinni
okkr til ágætis,
er mik út hefja.

*Guðrún:*

101. Knörr mun ek kaupa
ok kistu steinda,
vexa vel blæju
at verja þitt líki,
hyggja á þörf hverja,
sém vit holl værim.“

102. Nár varð þá Atli,
niðjum stríð œxti;
efndi ítrborin
alt þaz réð heita;
fróð vildi Guðrún
fara sér at spilla;

urðu dvöl dœgra,
dó hon í sinn annat.
103. Sæll er hverr síðan,
er slíkt getr fœða
jóð at afreki,
sems ól Gjúki.
Lifa mun þat eptir
á landi hverju
þeirra þrámæli,
hvargi er þjóð heyrir.

# GUÐRÚNARHVÖT

Guðrún gékk þá til sævar, er hon hafði drepit Atla; gékk hon út á sæinn ok vildi fara sér; hon mátti eigi sökkva, rak hana yfir fjörðinn á land Jónakrs konungs. Hann fékk hennar. Þeirra synir váru þeir Sörli ok Erpr ok Hamðir. Þar fœddisk upp Svanhildr Sigurðar dóttir; hon var gipt Jörmunrek enum ríkja. Með hánum var Bikki; hann réð þat at Randver konungs son skyldi taka hana; þat sagði Bikki konungi. Konungr lét hengja Randve, en troða Svanhildi undir hrossa fótum. En er þat spurði Guðrún, þá kvaddi hon sonu sína.

1. Þá frá ek sennu
slíðrfengligsta,
trauðmál talið
af trega stórum,
er harðhuguð
hvatti at vígi
grimmum orðum
Guðrún sonu:
2. „Hví sitit [ér],
hví sofit lífi,
hví tregrat ykkr
teiti at mæla?
er Jörmunrekr
yðra systur

unga at aldri
jóm of traddi
hvítum ok svörtum
á hervegi,
grám, gangtömum
Gotna hrossum.
3. Urðua it glíkir
þeim Gunnari,
né in heldr hugðir
sem var Högni;
hennar mundut it
hefna leita,
ef it móð ættið
minna brœðra,
eða harðan hug
Húnkonunga."
4. Þá kvað þat Hamðir
inn hugumstóri:
„lítt mundir þú
leyfa dáð Högna,
þá er Sigurð vöktu
svefni or;
bœkr váru þínar
enar bláhvítu
roðnar í vers dreyra,
fólgnar í valblóði.
5. Urðu þér bráðar
brœðra hefndir,
slíðrar ok sárar,
er þú sonu myrðir;
knættim [ungrar
á] Jörmunreki
samhyggjendr
systur hefna.
6. Berit hnossir fram
Húnkonunga,
hefir þú okkr hvatta
at hjörþingi."
7. Hlæjandi Guðrún
hvarf til skemmu,
kumbl konunga
or kerum valdi,
síðar brynjur,
ok sonum fœrði;
hlóðusk móðgir
á mara bógu.
8. Þá kvað þat Hamðir
inn hugumstóri:
„svá komask meir aptr
móður at vitja
geirnjörðr hniginn
á Goðþjóðu,
at þú erfi
at öll oss drykkir,
at Svanhildi
ok sonu þína."
9. Guðrún grátandi
Gjúka dóttir
gékk hon tregliga
á tái sitja,
ok at telja
táruk hlýra
móðug spjöll
á margan veg:
10. „Þrjá vissa ek elda,
þrjá vissa ek arna,
var ek þrimr verum
vegin at húsi;

einn var mér Sigurðr
öllum betri,
er brœðr mínir
at bana urðu.
11. Svárra sára
sakað ek né kunna,
meir þóttusk
mér um stríða,
er mik öðlingar
Atla gáfu.
12. Húna hvassa
hét ek mér at rúnum,
máttigak bölva
bœtr um vinna,
áðr ek hnóf höfuð
af hniflungum.
13. Gékk ek til strandar,
gröm vark nornum,
vilda ek hrinda
stríðgríð þeirra;
hófu mik, né drektu
hávar bárur,
því ek land um stték,
at lifa skyldak.
14. Gékk ek á beð
— hugðak mér fyrir betra —
þriðja sinni
þjóðkonungi;
ól ek mér jóð
erfivörðu,
[erfivörðu]
Jónakrs sonum.
15. En um Svanhildi
sátu þýjar,
er ek minna barna
bazt fullhugðak;
svá var Svanhildr
í sal mínum,
sem væri sœmleitr
sólar geisli.
16. Gœdda ek gulli
ok guðvefjum,
áðr ek gæfak
Goðþjóðar til;
þat er mér harðast
harma minna
of þann inn hvíta
hadd Svanhildar,
auri tröddu
und jóa fótum.
17. En sá sárastr,
er þeir Sigurð minn
sigri ræntan
í sæing vágu;
en sá grimmastr,
er þeir Gunnari
fránir ormar
til fjörs skriðu;
en sá hvassastr
er til hjarta fló,
konung óblauðan
kvikvan skáru.
18. Fjöld man ek bölva,
[fjöld man ek harma];
beittu, Sigurðr!
enn blakka mar,
hest inn hraðfœra
láttu hinnig renna;

sitr eigi hér
snör né dóttir,
sú er Guðrúnu
gefi hnossir.
19. Minnstu, Sigurðr!
hvat vit mæltum,
þá er vit á beð
bæði sátum,
at þú myndir mín
móðugr vitja
halr or helju,
en ek þín or heimi.
20. Hlaðit ér, jarlar!
eikiköstinn,
látið hann und hilmi
hæstan verða:
megi brenna brjóst
bölvafult,
eldr um hjarta,
þíðni sorgir.
21. Jörlum öllum
óðal batni,
snótum öllum
sorg at minni,
at þetta tregrof
um talit, væri.“

# HAMÐISMÁL

1. Spruttu á tái
tregnar iðir,
græti álfa
in glýstömu;
ár um morgin
manna bölva
sútir hverjar
sorg um kveykva.
2. Vara þat nú
né í gær,
þat hefir langt
liðit síðan;
er fátt fornara,
fremr var þat hálfu,
er hvatti Guðrún
Gjúka borin
sonu sína unga
at hefna Svanhildar:
3. „Systir var ykkur
Svanhildr um heitin,
sú er Jörmunrekr
jóm um traddi
hvítum ok svörtum
á hervegi,
grám, gangtömum
Gotna hrossum.
4. Eptir er ykkr þrungit
þjóðkonunga,
lifit einir ér
þátta ættar minnar.
5. Einstœð em ek orðin
sem ösp í holti,
fallin at frændum
sem fura at kvisti,
vaðin at vilja
sem viðr at laufi,
þá er in kvistskœða
kemr um dag varman.“
6. Hitt kvað þá Hamðir
inn hugumstóri:
„lítt myndir þú þá, Guðrún!
leyfa dáð Högna,
er þeir Sigurð
vöktu svefni or,
saztu á beð,
en banar hlógu.

7. Bœkr váru þínar
inar bláhvítu
ofnar völundum,
flutu í vers dreyra;
svalt þá Sigurðr,
saztu yfir dauðum,
glýja þú né gáðir;
Gunnarr þér svá vildi.

8. Atla þóttisk þú stríða
at Erps morði
ok at Eitils
aldrlagi,
þat var þér sjálfri verra;
svá skyldi hverr
öðrum verja
til aldrlaga
sverði sárbeitu,
at sér né stríddit."

9. Hitt kvað þá Sörli,
svinna hafði hann hyggju:
„vilkat ek við móður
málum skipta,
orðs þikkir enn vant
ykkru hváru,
hvers biðr nú, Guðrún!
er þú at gráti né færat.

10. Brœðr grát þú þína
ok buri svása,
niðja náborna
leidda nær rógi;
okkr skaltu ok, Guðrún!
gráta báða,
er hér sitjum feigir á mörum;
fjarri munum deyja."

11. Géngu or garði
görvir at eiskra,
liðu þá yfir ungir
úrig fjöll
mörum húnlenzkum,
morðs at hefna.

12. Þá kvað þat Erpr
ernu sinni,
mœrr um lék
á mars baki:
„ilt er blauðum hal
brautir kenna."
Kóðu harðan mjök
hornung vera.

13. Fundu á stræti
stórbrögðóttan:
„hve mun jarpskamr
okkr fultingja?"

14. Svaraði hinn sundrmœðri,
svá kvazk veita mundu
fulting frændum,
sem fótr öðrum
[eða holdgróin
hönd annarri].

15. „Hvat megi fótr
fœti veita,
né holdgróin
hönd annarri?"

16. Drógu þeir or skíði
skíðijárn,
mækis eggjar
at munflagði,
þverðu þeir þrótt sinn
at þriðjungi,

létu mög ungan
til moldar hníga.
17. Skóku loða,
skálmir festu,
ok góðbornir
smugu í guðvefi.
18. Fram lágu brautir,
fundu vástigu,
ok systur son
sáran á meiði,
vargtré vindköld
vestan bœjar,
trýtti æ trönu hvöt,
títt varat biðja.
19. Glaumr var í höllu,
halir ölreifir,
ok til gota ekki
gerðut heyra,
áðr halr hugfullr
í horn um þaut.
20. Segja fóru
Jörmunreki,
at sénir váru
seggir undir hjálmum:
„rœðit ér um ráð,
ríkir eru komnir,
fyr mátkum hafit ér mönnum
mey um tradda!“
21. Hló þá Jörmunrekr,
hendi drap á kampa,
beiddisk at bröngu,
böðvaðisk at víni;
skók hann skör jarpa,
sá á skjöld hvítan,
lét hann sér í hendi
hvarfa ker gullit.
22. „Sæll ek þá þættumk,
ef ek sjá knætta
Hamði ok Sörla
í höllu minni;
munda ek þá binda
með boga strengjum,
góð börn Gjúka
festa á gálga.“
23. Hitt kvað þá Hróðrglöð,
stóð of hleðum,
„mefingr!“ mælti
við mög þenna:
— þvíat þat hætta
at hlýðigi myni —
„mega tveir menn einir
tíu hundruðum Gotna
binda eða berja
í borg inni há?“
24. Styrr varð í ranni,
stukku ölskálir,
í blóði bragnar lágu,
komit or brjósti Gotna.
25. Hitt kvað þá Hamðir
inn hugumstóri:
„æstir, Jörmunrekr!
okkarrar kvámu,
brœðra sammœðra,
innan borgar þinnar;
fœtr sér þú þína,
höndum sér þú þínum,
Jörmunrekr! orpit
í eld heitan.“

26. Þá hraut við
inn reginkunngi
baldr í brynju,
sem björn hryti:
„grýtið ér á gumna,
alls geirar né bíta
eggjar né járn
Jónakrs sonu.“
27. Hitt kvað þá Hamðir
inn hugumstóri:
„böl vantu, bróðir!
er þú þann belg leystir;
opt or þeim belg
böll ráð koma.“

*Sörli:*

28. Hug hefðir þú, Hamðir!
ef þú hefðir hyggjandi,
mikils er á mann hvern vant,
er mannvits er.
29. Af væri nú höfuð,
ef Erpr lifði,
bróðir okkarr inn böðfrœkni,
er vit á braut vágum,
varr inn vígfrœkni,
hvöttumk at dísir,
gumi inn gunnhelgi,
görðumk at vígi.
30. Ekki hygg ek okkr vera
úlfa dœmi,
at vit mynim sjálfir um sakask,
sem grey norna,
þar er gráðug eru
í auðn um alin.
31. Vel höfum vit vegit,
stöndum á val Gotna
ofan eggmóðum
sem ernir á kvisti;
góðs höfum tírar fengit,
þótt skylim nú eða í gær deyja;
kveld lifir maðr ekki
eptir kvið norna.“
32. Þar féll Sörli
at salar gafli,
en Hamðir hné
at húsbaki.

Þetta eru kölluð Hamðismál in fornu.

# GROTTASÖNGR

(SE. — cod. reg. 3267, 4º — I, p. 378—390.)

[Kvern heitir Grotti, er átti Fróði konungr; hon mól hvetvetna þat er hann vildi, gull ok frið; Fenja ok Menja hétu ambáttir þær er mólu. Þá tók Mýsingr sækonungr Grottu ok lét mala hvíta salt á skipum sínum, þar til er þau sukku á Petlandsfirði; þar er svelgr síðan, er sær fellr í auga Grottu; þá gnýr sær er hon gnýr, ok þá varð sjórinn saltr. SE. (cod. AM. 748, 4º) II, p. 431.]

1. Nú eru komnar
til konungshúsa
framvísar tvær,
Fenja ok Menja;
þær 'ro at Fróða
Friðleifs sonar
máttkar meyjar
at mani hafðar.

2. Þær at lúðri
leiddar váru,
ok grjóts grjá
gangs of beiddu;
hét hann hvárigri
hvíld né yndi,
áðr hann heyrði
hljóm ambátta.

3. Þær þyt þulu
þögnhorvinnar
leggjum lúðra,
léttum steinum;
bað hann enn meyjar,
at þær mala skyldu.

4. Sungu ok slungu
snúðga steini,
svá at Fróða man
flest sofnaði;
þá kvað þat Menja,
var til melds komin:

5. „Auð mölum Fróða,
mölum alsælan,
fjölð fjár

á fegins lúðri.
Siti hann á auði,
sofi hann á dúni,
vaki hann at vilja,
þá er vel malit.
6. Hér skyli engi
öðrum granda,
til böls búa
né til bana orka,
né höggva því
hvössu sverði,
þó at bana bróður
bundinn finni."
7. En hann kvað ekki
orð it fyrra:
„sofit eigi þit
né of sal gaukar,
eða lengr en svá
ljóð eitt kveðak."
8. „Varattu, Fróði!
fullspakr of þik,
málvinr manna,
er þú man keyptir;
kaustu at afli
ok at álitum,
en at ætterni
ekki spurðir.
9. Harðr var Hrungnir
ok hans faðir,
þó var Þjassi
þeim öflgari;
Iði ok Örnir
okkrir niðjar,
brœðr bergrisa,
þeim erum bornar.
10. Kœmia Grotti
or grjá fjalli,
né sá hinn harði
hallr or jörðu,
né mœli svá
mær bergrisa,
ef vissi vítt
vætr til hennar.
11. Vér vetr níu
várum leikur,
öflgar alnar
fyr jörð neðan;
stóðu meyjar
at meginverkum,
fœrðum sjálfar
setberg or stað.
12. Veltum grjóti
of garð risa,
svá at fold fyrir
fór skjálfandi;
svá slöngðum vit
snúðga steini,
höfga halli,
at halir tóku.
13. En vit síðan
á Svíþjóðu
framvísar tvær
í fólk stigum;
beiddum björnu
en brutum skjöldu,
géngum í gegnum
gráserkjat lið;
steyptum stilli,

studdum annan,
veittum góðum
Gothormi lið;
vara kyrrseta,
áðr Knúi félli.
14. Fram héldum því
þau misseri,
at vit at köppum
kendar várum;
þar skorðu vit
skörpum geirum
blóð or benjum,
ok brand ruðum.
15. Nú erum komnar
til konungs húsa
miskunnlausar,
ok at mani hafðar;
aurr etr iljar,
en ofan kuldi,
drögum dólgs sjötul,
daprt er at Fróða.
16. Hendr skolu hvílask,
hallr standa mun,
malit hefi ek fyr mik,
mitt of létti;
nú muna höndum
hvíld vel gefa,
áðr fullmalit
Fróða þykki.
17. Hendr skolu hölda
harðar trjónur,
vápn valdreyrug.
Vaki þú, Fróði!
Vaki þú, Fróði!
ef þú hlýða vill
söngum okkrum
ok sögum fornum.
18. Eld sé ek brenna
fyr austan borg,
vígspjöll vaka,
þat mun viti kallaðr;
mun herr koma
hinig af bragði,
ok brenna bœ
fyr buðlungi.
19. Munat þú halda
Hleiðrar stóli,
rauðum hringum
né regingrjóti;
tökum á möndli,
mær! skarpara,
eruma valmar
í valdreyra.
20. Mól míns föður
mær ramliga,
þvíat hon feigð fíra
fjölmargra sá;
stukku stórar
steðr frá lúðri,
járnar fjarðar,
mölum enn framar!
21. Mölum enn framar,
mun Yrsu sonr
niðr Hálfdanar
hefna Fróða;
sá mun hennar
heitinn verða
burr ok bróðir,

vitum báðar þat.“
22. Mólu meyjar,
megins kostuðu,
váru ungar
í jötunmóði;
skulfu skaptré,
skauzk lúðr ofan,
hraut hinn höfgi
hallr sundr í tvau.
23. En bergrisa
brúðr orð um kvað:
„malit höfum, Fróði!
sem munum hætta,
hafa fullstaðit
fljóð at meldri.“

---

# FRAGMENTE EDDISCHER POESIE

IN

## SNORRA-EDDA UND VÖLSUNGASAGA

---

1) **SE.** I, p. 36: Hár (*d. i.* Óðinn) segir, at hann (Gangleri) komi eigi heill út, nema hann sé fróðari, ok

stattu fram
meðan þú fregn,
sitja skal sá er segir.

2) **SE.** I, 92: Njörðr á þá konu er Skaði heitir, dóttir Þjassa jötuns. Skaði vill hafa bústað þann, er átt hafði faðir hennar; þat er á fjöllum nökkurum, þar sem heitir Þrumheimr, en Njörðr vill vera nær sæ; þau sættust á þat, at þau skyldu vera IX nætr í Þrumheimi, en þá aðrar IX at Nóatúnum. En er Njörðr kom aptr til Nóatúna af fjallinu, þá kvað

hann þetta:

Leið erumk fjöll,
varka ek lengi,
nætr einar níu;
úlfa þytr
mér þótti illr vera
hjá söngvi svana.

Þá kvað Skaði þetta:

Sofa ek máttat
sæfar beðjum á
fugls jarmi fyrir;
sá mik vekr,
er af víði kemr
morgun hverjan már.

3) **SE.** I, p. 102: Ok enn segir hann (Heimdallr) sjálfr í Heimdalar-galdri:

Níu em ek mœðra mögr,
níu em ek systra sonr.

4) **SE.** I, p. 116: XIV. Gná, hana sendir Frigg í ýmsa heima at eyrindum sínum. Hon á þann hest, er renn lopt ok lög, er heitir Hófhvarfnir. Þat var eitt sinn, er hon reið, at Vanir nökkurir sá reið hennar í loptinu, þá mælti einn:

Hvat þar flýgr?
hvat þar ferr,
eða at lopti líðr?

Hon svarar:

Né ek flýg,
þó ek fer
ok at lopti líð
á Hófhvarfni,
þeim er Hamskerpir
gat við Garðrofu.

5) **SE.** I, p. 180: Því næst sendu æsir um allan heim örindrekka, at biðja at Baldr væri grátinn or helju, en allir gerðu þat . . . Þá er sendimenn fóru heim ok höfðu vel rekit sín örindi, finna þeir í helli nökkurum, hvar gýgr sat; hon nefndist Þökk; þeir biðja hana gráta Baldr or helju; hon svarar:

Þökk mun gráta
þurrum tárum
Baldrs bálfarar;
kyks né dauðs
nautka ek karls sonar,
haldi Hel því er hefir!

6) **SE.** [ed. Egilss. p. 220] II, p. 431. 514: Sól er kölluð eldsheitum, ok kend til himins.

Sægr heitir sár,
en Simul stöng;
Bil ok Hjúki
bera hann.

7) **SE.** [ed. Egilss. p. 221] II, p. 432. 515: Fjöturrinn heitir Gleipnir, er hánum (Fenrisúlfi)

heldr . . . þá var gerr Gleipnir or sex hlutum:

Or kattar dyn
ok or konu skeggi,
or fisks anda
ok or fugla mjólk,
or bergs rotum
ok or bjarnar sinum:
or því var hann Gleipnir gerr.

8) **SE.** [Málskrúðs frœði] II, p. 142 [*um Óðins hrafna*]:

Flugu hrafnar tveir
af Hnikars öxlum:
Huginn til hanga,
en á hræ Muninn.

9) Völs. s. k. 8: Sigmundr tekr nú blóðrefilinn, ok ristu nú í milli sín helluna, ok léttu eigi fyrr en lokit er at rista, sem kveðit er:

Ristu af magni
mikla hellu
Sigmundr hjörfi
ok Sinfjötli.

10) Völs. s. k. 27: Síðan ríðr Sigurðr ok hefir Gram í hendi, ok bindr gullspora á fœtr sér. Grani hleypr fram at eldinum [Vafrloga], er hann kendi sporans . . . svá er kvæðit:

Eldr nam at œsask
en jörð at skjálfa
ok hár logi
við himin gnæfa,
fár treystisk þar
fylkis rekka
eld at ríða
né yfirstíga.
Sigurðr Grana
sverði keyrði;
eldr sloknaði
fyr öðlingi;
logi allr lægðisk
fyr lofgjörnum,
bliku reið,
er Reginn átti.

11) Völs. s. k. 28: Brynhildr svarar: Sigurðr vá at Fáfni ok er þat meira vert, en alt ríki Gunnars konungs, svá sem kveðit er:

Sigurðr vá at ormi
en þat síðan mun
engum fyrnask
meðan öld lifir,
en hlýri þinn
hvárki þórði
eld at ríða
né yfir stíga.

12) Völs. s. k. 29: Sigurðr gékk í brott; svá segir í Sigurðar kviðu:

Út gékk Sigurðr
annspjalli frá
hollvinr lofða,
ok hnípaði,
svá at ganga nam
gunnarfúsum
sundr of síður
serkr járnofinn.

13) Völs. s. k. 29: Þeir (Gunnarr ok Högni) tóku orm einn ok af vargsholdi, ok létu sjóða, ok gáfu hánum (Guttormi) at eta, sem skáldit kvað:

Svipir viðfiska
tóku, sumir
vitnis hræ skífðu,
sumir Guthormi
gáfu gera hold
við munngáti,
ok marga luti
aðra í tyfrum.

# ANHANG

## GRÓGALDR

*Sonr:*

1. Vaki þú, Gróa!
vaki þú, góð kona!
vek ek þik dauðra dúra;
ef þú þat mant,
at þú þinn mög bæðir
til kumbldysjar koma.

*Gróa:*

2. Hvat er nú ant
mínum einga syni?
hverju ertu nú bölvi borinn?
er þú þá móður kallar,
er til moldar er komin,
ok or ljóðheimum liðin.

*sonr:*

3. Ljótu leikborði
skauztu fyr mik, hin lævísa kona!
sú er faðmaði minn föður;
þar bað hon mik koma,
er kveðki veit,
móti menglöðum.

*Gróa:*

4. Löng er för,
langir 'ro farvegar,
langir 'ro manna munir;
ef þat verðr
at þú þinn vilja biðr,
ok skeikar þá skuld at sköpum.

*sonr:*

5. Galdra þú mér gal
þá er góðir eru,
bjarg þú, móðir! megi;
á vegum allr
hygg ek at ek verða muna;
þikkjumk ek til ungr afi.

*Gróa:*

6. Þann gel ek þér fyrstan,

þann kveða fjölnýtan,
þann gól Rindr Ráni,
at þú of öxl skjótir
því er þér atalt þikkir;
sjálfr leið þú sjálfan þik.

7. Þann gel ek þér annan,
ef þú árna skalt
viljalauss á vegum,
Urðar lokur haldi þér
öllum megum,
er þú á smán sér.

8. Þann gel ek þér inn þriðja,
ef þér þjóðár
falla at fjörlotum,
Horn ok Ruðr
snúisk til heljar meðan,
en þverri æ fyr þér.

9. Þann gel ek þér inn fjórða,
ef þik fjándr standa
görvir á gálgvegi,
hugr þeim hryggvi
til handa þér mætti,
ok snúisk þeim til sátta sefi.

10. Þann gel ek þér inn fimta,
ef þér fjöturr verðr
borinn at bóglimum,
Leifnis elda læt ek þér
fyr legg of kveðna,
ok stökkr þá láss af limum.

11. Þann gel ek þér inn setta,
ef þú á sjó kemr
meira en menn viti,
logn ok lögr gangi þér
í lúðr saman,
ok ljái þér æ friðdrjúgrar farar.

12. Þann gel ek þér inn sjaunda,
ef þik sœkja kynni
frost á fjalli há,
hræva kuldi megit
þínu holdi fara,
ok haldit er lík at liðum.

13. Þann gel ek þér inn átta,
ef þik úti nemr
nótt á niflvegi,
at því firr megi
þér til meins göra
kristin dauð kona.

14. Þann gel ek þér inn níunda,
ef þú við inn naddgöfga
orðum skiptir jötun,
máls ok mannvits
sé þér á minnishjarta
gnóga of gefit.

15. Far þú nú æva
þar er forað þikkir,
ok standit þér mein fyr munum!
á jarðföstum steini
stóð ek innan dura,
meðan ek þér galdra gól.

16. Móður orð ber þú,
mögr! héðan,
ok lát þér í brjósti búa;
því nóga heill
skaltu of aldr hafa,
meðan þú mín orð of mant.

# FJÖLSVINNSMÁL

1. Utan garða
hann sá upp um koma
þursa þjóðar sjöt.
(*Fjölsviðr:*)
Hvat er þat flagða,
er stendr fyr forgörðum
ok hvarflar um hættan loga?
2. Hvers þú leitar,
eða hvers þú á leitum ert,
eða hvat viltu, vinlauss! vita?
úrgar brautir
árna þú aptr héðan;
áttattu hér verndarvanr veru!
(*Vindkaldr:*)
3. Hvat er þat flagða,
er stendr fyr forgarði
ok býðrat líðöndum löð?
sœmdarorða lauss
hefir þú seggr of lifat,
ok haltu heim héðan.
(*Fjölsviðr:*)
4. Fjölsviðr ek heiti,
en ek á fróðan sefa,
þeygi em ek míns mildr matar;
innan garða
þú kemr hér aldregi,
ok dríf þú nú, vargr! at vegi.
(*Vindkaldr:*)
5. Augna gamans
fýsir aptr fán,
hvars hann getr svást at sjá;
garðar glóa mér þikkja
of gullna sali,
hér munda ek eðli una.
*Fjölsviðr:*
6. Segðu mér hverjum
ertu, sveinn! of borinn,
eða hverra ertu manna mögr?
*Vindkaldr:*
Vindkaldr ek heiti,

Várkaldr hét minn faðir,
þess var Fjölkaldr faðir.

7. Segðu mér þat, Fjölsviðr!
er ek þik fregna mun,
ok ek vilja vita:
hverr hér ræðr,
ok ríki hefir,
eign ok auðsölum?

*Fjölsviðr:*

8. Menglöð of heitir,
en hana móðir of gat
við Svafrþorins syni;
hon hér ræðr,
ok ríki hefir,
eign ok auðsölum.

*Vindkaldr:*

9. Segðu mér þat, Fjölsviðr!
er ek þik fregna mun,
ok ek vilja vita:
hvat sú grind heitir,
er með goðum sáat
menn hit meira forat?

*Fjölsviðr:*

10. Þrymgjöll hon heitir,
en hana þrír görðu
Sólblinda synir;
fjöturr fastr verðr
við faranda hvern,
er hana hefr frá hliði.

*Vindkaldr:*

11. Segðu mér þat, Fjölsviðr!
er ek þik fregna mun,
ok ek vilja vita:
hvat sá garðr heitir,
er með goðum sáat
menn hit meira forat?

*Fjölsviðr:*

12. Gastropnir heitir,
en ek hann görvan hefik
or Leirbrímis limum;
svá hefik studdan,
at standa mun
æ meðan öld lifir.

*Vindkaldr:*

13. Segðu mér þat Fjölsviðr!
er ek þik fregna mun,
ok ek vilja vita:
hvat þeir garmar heita,
er gífr reka
görða fyr löndin lim?

*Fjölsviðr:*

14. Gífr heitir annarr,
en Geri annarr,
ef þú vilt þat vita;
varðir ellifu,
er þeir varða,
unz rjúfask regin.

*Vindkaldr:*

15. Segðu mér þat Fjölsviðr!
er ek þik fregna mun,
ok ek vilja vita:
hvárt sé manna nökkut,
þat er megi inn koma,
meðan sókndjarfir sofa?

*Fjölsviðr:*

16. Missvefni mikit
var þeim mjök of lagit,
síðan þeim var varzla vituð;

annarr of nætr sefr,
en annarr of daga,
ok kemsk þá vættr, ef þá kom.

*Vindkaldr:*

17. Segðu mér þat Fjölsviðr!
er ek þik fregna mun,
ok ek vilja vita:
hvárt sé matar nökkut,
þat er menn hafi,
ok laupi inn meðan þeir eta?

*Fjölsviðr:*

18. Vegnbráðir tvær
liggja í Viðofnis liðum,
ef þú vilt þat vita;
þat eitt er svá matar,
at þeim menn of gefi,
ok laupa inn meðan þeir eta.

*Vindkaldr:*

19. Segðu mér þat Fjölsviðr!
er ek þik fregna mun,
ok ek vilja vita:
hvat þat barr heitir,
er breiðisk um
lönd öll ok limar?

*Fjölsviðr:*

20. Mímameiðr hann heitir,
en þat fáir vita,
af hverjum rótum rennr;
við þat hann fellr
er fæstan varir,
flærat hann eldr né járn.

*Vindkaldr:*

21. Segðu mér þat Fjölsviðr!
er ek þik fregna mun,
ok ek vilja vita:
hvat af móði verðr
þess ins mœra viðar,
ef hann flærat eldr né járn?

*Fjölsviðr:*

22. Út af hans aldni
skal á eld bera,
fyr kvellisjúkar konur;
útar hverfa
þess þeir innar skyli,
sá er hann með mönnum mjötuðr.

*Vindkaldr:*

23. Segðu mér þat Fjölsviðr!
er ek þik fregna mun,
ok ek vilja vita:
hvat sá hani heitir,
er sitr í enum háfa viði,
allr hann við gull glóir.

*Fjölsviðr:*

24. Viðofnir hann heitir,
en hann stendr veðrglasi
á meiðs kvistum Míma;
einum ekka þryngr
hann oróf saman
Surtr sín mötu.

*Vindkaldr:*

25. Segðu mér þat Fjölsviðr!
er ek þik fregna mun,
ok ek vilja vita:
hvárt sé vápna nökkut,
þat er knegi Viðofnir fyrir
hníga á Heljar sjöt.

*Fjölsviðr:*

26. Hævateinn heitir hann,
en hann görði Loptr rúinn
fyr nágrindr neðan;
í Sægjarns keri liggr hann
hjá Sinmœru,
ok halda njarðlásar níu.

*Vindkaldr:*

27. Segðu mér þat Fjölsviðr!
er ek þik fregna mun,
ok ek vilja vita:
hvárt aptr kemr,
sá er eptir ferr
ok vill þann tein taka?

*Fjölsviðr:*

28. Aptr mun koma,
sá er eptir ferr
ok vill þann tein taka,
ef þat fœrir,
sem fáir eigu,
eiri aurglasis.

*Vindkaldr:*

29. Segðu mér þat Fjölsviðr!
er ek þik fregna mun,
ok ek vilja vita:
hvárt sé mæta nökkut,
þat er menn hafi,
ok verðr því hin fölva gýgr fegin?

*Fjölsviðr:*

30. Ljósan ljá
skaltu í lúðr bera,
þann er liggr í Viðofnis völum;
Sinmœru at selja,
áðr hon sœm telisk,
vápn til vígs at ljá.

*Vindkaldr:*

31. Segðu mér þat Fjölsviðr!
er ek þik fregna mun,
ok ek vilja vita:
hvat sá salr heitir,
er slunginn er
vísum vafrloga?

*Fjölsviðr:*

32. Hyrr hann heitir,
en hann lengi mun
á brodds oddi bifask;
auðranns þess
munu um aldr hafa
frétt eina fírar.

*Vindkaldr:*

33. Segðu mér þat, Fjölsviðr!
er ek þik fregna mun,
ok ek vilja vita:
hverr þat görði,
er ek fyr garð sák
innan ásmaga?

*Fjölsviðr:*

34. Uni ok Íri,
Bari ok Óri,
Varr ok Vegdrasill,
Dorri ok Úri,
Dellingr ok Atvarðr,
Liðskjálfr, Loki.

*Vindkaldr:*

35. Segðu mér þat, Fjölsviðr!
er ek þik fregna mun,
ok ek vilja vita:

hvat þat bjarg heitir,
er ek sé brúði á
þjóðmœra þruma?

*Fjölsviðr:*

36. Hyfjaberg þat heitir,
en þat hefir lengi verit
svikum ok sári gaman;
heil verðr hver,
þótt hafi árs sótt,
ef þat klífr kona.

*Vindkaldr:*

37. Segðu mér þat, Fjölsviðr!
er ek þik fregna mun,
ok ek vilja vita:
hvat þær meyjar heita,
er fyr Menglaðar knjám
sitja sáttar saman?

*Fjölsviðr:*

38. Hlíf heitir,
önnur Hlífþursa,
þriðja þjóðvarta,
Björt ok Blíð,
Blíðr, Fríð,
Eir ok Örboða.

*Vindkaldr:*

39. Segðu mér þat, Fjölsviðr!
er ek þik fregna mun,
ok ek vilja vita:
hvárt þær bjarga
þeim er blóta þær,
ef görask þarfar þess?

*Fjölsviðr:*

40. Sumur hvẹr,
er menn blóta þær
á stallhelgum stað;
eigi svá hátt forat
kemr at hölda sonum,
hvern þær or nauðum nema.

*Vindkaldr:*

41. Segðu mér þat, Fjölsviðr!
er ek þik fregna mun,
ok ek vilja vita:
hvárt sé manna nökkut,
þat er knegi á Menglaðar
svásum armi sofa?

*Fjölsviðr:*

42. Vætr er þat manna,
er knegi á Menglaðar
svásum armi sofa,
nema Svipdagr einn;
hánum var sú in sólbjarta
brúðr at kván of kveðin.

*Vindkaldr:*

43. Hrittu á hurðir,
láttu hlið rúm,
hér máttu Svipdag sjá;
en þó vita far,
ef vilja muni
Menglöð mitt gaman.

*Fjölsviðr:*

44. Heyrðu, Menglöð!
hér er maðr kominn,
gakk þú á gest sjá;
hundar fagna,
hús hefir upp lokizk,
hygg ek at Svipdagr sé.

*Menglöð:*

45. Horskir hrafnar skolu þér

á hám gálga
slíta sjónir or,
ef þú þat lýgr,
at hér sé langt kominn
mögr til minna sala.
46. Hvaðan þú fórt,
hvaðan þú för görðir,
hve þik hétu hjú?
at ætt ok nafni
skal ek jartegn vita,
ef ek var þér kván of kveðin.

*Vindkaldr:*

47. Svipdagr ek heiti,
Sólbjartr hét minn faðir,
þaðan rákumk vindar kalda vegu;
Urðar orði
kveðr engi maðr,
þótt þat sé við löst lagit.

*Menglöð:*

48. Vel þú nú kominn!
hefi ek minn vilja beðit,
fylgja skal kveðju koss;
forkunnar sýn
mun flestan glaða,
hvars hefir við annan ást.
49. Lengi ek sat
ljúfu bergi á,
beið ek þín dœgr ok daga;
nú þat varð
er ek vætt hefir,
at þú ert aptr kominn,
mögr! til minna sala.
50. Þrár hafðar
er ek hefi til þíns gamans,
en þú til míns munar;
nú er þat satt,
er við slíta skolum
ævi ok aldri saman.

# HRAFNAGALDR ÓÐINS

eða

## FORSPJALLSLJÓÐ

1. Alföðr orkar,
álfar skilja,
vanir vitu,
vísa nornir,
elr íviðja,
aldir bera,
þreyja þursar,
þrá valkyrjur.
2. Ætlun æsir
illa gátu,
verpir viltu
vættar rúnum;
Óðhrœris skyldi
Urðr geyma,
máttig at verja
mestum þorra.
3. Hverfr því hugr
hinna leitar,
grunar guma
grand, ef dvelr;
þótti er Þráins
þunga draumr,
Dáins dulu
draumr þótti.
4. Dugir með dvergum
dvína, heimar
niðr á Ginnungs
niði sökkva;
opt Alsviðr
ofan fellir,
opt of föllnum
aptr safnar.
5. Stendr æva
strind né röðull,
lopti með lævi
linnir ei straumi;
mœrum dylsk
í Mímis brunni

víssa vera;
vitið enn eða hvat?

---

6. Dvelr í dölum
dís forvitin,
Yggdrasils frá
aski hnigin;
álfa ættar
Iðunni hétu,
Ívalds ellri
yngsta barna.
7. Eirði illa
ofankomu,
hárbaðms undir
haldin meiði;
kunni sízt
at kundar Nörva,
vön at væri
vistum heima.
8. Sjá sigtívar
syrgja Nönnu,
viggjar at véum
vargsbelg seldu;
lét í fœrask,
lyndi breytti,
lék at lævísi,
litum skipti.
9. Valdi Viðrir
vörð Bifrastar,
gjallar sunnu
gátt at frétta
heims hvívetna,
hvert er vissi?
Bragi ok Loptr
báru kviðu.
10. Galdr gólu,
göndum riðu
Rögnir ok regin
at ranni heimis;
hlustar Óðinn
Hliðskjálfu í,
lét braut vera
langa vegu.
11. Frá enn vitri
veiga selju
banda burða
ok brauta sinna,
hlýrnis, heljar,
heims ef vissi
ártíð, æfi,
aldrtila.
12. Né mun mælti,
né mál knátti
gívum greiða,
né glaum hjaldi;
tár af tíndusk
törgum hjarnar,
eljun faldin
endrrjóða.
13. Eins kemr austan
or Elivágum
þorn af ati
þurs hrímkalda:
hveim drepr dróttir
dáinn allar
mœran of Miðgarð
með nátt hverri.
14. Dofna þá dáðir,

detta hendr,
svífr of svimi
sverðás hvíta;
rennir örvit
rýgjar glýju,
sefa sveiflum,
sókn görvallri.
15. Jamt þótti Jórunn
jölnum komin,
sollin sútum,
svars er ei gátu;
sóttu því meir
at syn var fyrir,
mun þó miðr
mælgi dugði.
16. Fór frumkvöðull
fregnar brauta,
hirðir at Herjans
horni gjallar;
Nálar nefa
nam til fylgis,
greppr Grimnis
grund varðveitti.
17. Vingólf tóku
Viðars þegnar,
Fornjóts sefum
fluttir báðir;
iðar ganga,
ásu kveðja
Yggjar þegar
við ölteiti.
18. Heilan Hangatý,
heppnastan ása,
virt öndvegis
valda báðu;
sæla at sumbli
sitja día,
æ með Yggjungi
yndi halda.
19. Bekkjarsett
at Bölverks ráði
sjöt Sæhrímni
saddisk rakna;
Skögul at skutlum
skaptker Hnikars
mat af miði
Mímis hornum.
20. Margs of frágu
máltíð yfir
Heimdall há goð,
hörgar Loka,
spár eða spakmál
sprund ef kendi,
undorn of fram,
unz nam húma.
21. Illa létu
orðit hafa
erindisleysu
of lítilfræga;
vant at væla
verða myndi,
svá af svanna
svars of gæti.
22. Ansar Ómi,
allir hlýddu:
„nótt skal nema
nýræða til,
hugsi til myrgins,

hverr sem orkar
ráð til leggja
rausnar ásum!“
23. Rann með röstum
Rindar móðr
fóðrlarðr
Fenris valla;
géngu frá gildi,
goðin kvöddu
Hropt ok Frigg,
sem Hrímfaxa fór.
24. Dýrum settan
Dellings mögr
jó fram keyrði
jarknasteinum;
mars of mannheim
mön af glóar,
dró leik Dvalins
drösull í reið.
25. Jörmungrundar
í jaðar nyrðra
und ról yztu
aðalþollar,
géngu til rekkju
gýgjar ok þursar,
náir, dvergar
ok dökkálfar.
26. Risu raknar,
rann álfröðull,
norðr at Niflheim
njóla sótti;
upp rann árgjöll
Úlfrúnar niðr,
hornþytvaldr
himinbjarga.

# SÓLARLJÓÐ

1. Fé ok fjörvi
rænti fyrða kind
sá hinn grimmi greppr;
yfir þá götu,
er hann varðaði,
náði engi kvikr komask.

2. Einn hann át
opt harðla,
aldri bauð hann manni til matar,
áðr en móðr
ok meginlítill
gestr gangandi | af götu kom.

3. Drykks of þurfi
hinn dæsti maðr
ok lézk vanmettr vera;
hræddu hjarta
hann lézk trúa
þeim, er áðr hafði vályndr verit.

4. Mat ok drykkju veitti hann
þeim er móðr var,
alt af heilum hug;
guðs hann gáði,
góðu hánum beindi,
því hann hugðisk váligr vera.

5. Upp hinn stóð,
ilt hann hugði,
eigi var þarfsamliga þegit;
synd hans svall,
sofandi myrði
fróðan, fjölvaran.

6. Himna guð
bað hann hjálpa sér,
þá hann veginn vaknaði;
en sá gat
við syndum taka,
er hann hafði saklausan svikit.

7. Helgir englar
kómu or himnum ofan,
ok tóku sál hans til sín;
í hreinu lífi
hon skal æ lifa
með almátkum guði.

---

8. Auð né heilsu
ræðr engi maðr,
þó hánum gangi greitt;
margan þat sœkir

er minst of varir,
engi ræðr sættum sjálfr.

9. Ekki þeir hugðu
Unnarr ok Sævaldi,
at þeim mundi heill hrapa;
naktir þeir urðu
ok næmir hvívetna,
ok runnu sem vargar til viðar.

---

10. Munaðar ríki
hefir margan tregat,
opt verðr kvalræði af konum;
meingar þær urðu,
þó hinn máttki guð
skapti skírliga.

11. Sáttir þeir váru
Svafaðr ok Skartheðinn,
hvárrgi mátti annars án vera,
fyrr en þeir œddusk
fyr einni konu:
hon var þeim til lýta lagin.

12. Hvárkis þeir gáðu
fyr þá hvítu mey,
leiks né ljósra daga;
öngvan hlut máttu þeir
annan muna
en þat it ljósa lík.

13. Daprar þeim urðu
hinar dimmu nætr,
öngvan máttu þeir sœtan sofa;
en af þeim harmi
rann heipt saman
millum virktar vina.

14. Fádœmi verða
í flestum stöðum
goldin grimmliga;
á hólm þeir géngu
fyr hit horska víf,
ok féngu báðir bana.

---

15. Ofmetnað drýgja
skyldi engi maðr,
þat hefik sannliga sét;
því at þeir hverfa,
er hánum fylgja,
flestir guði frá.

16. Rík þau váru
Ráðey ok Vébogi,
ok hugðusk gott eitt gera;
nú þau sitja
ok sárum snúa
ýmsum eldi til.

17. Á sik þau trúðu,
ok þóttusk ein vera
allri þjóð yfir;
en þó leizk
þeirra hagr
annan veg almátkum guði.

18. Munað þau drýgðu
á marga vegu,
ok höfðu gull fyr gamni;
nú er þeim goldit,
er þau ganga skolu
milli frosts ok funa.

---

19. Óvinum þínum
trúðu aldregi,
þó þér fagrt mæli fyrir;

góðu þú heit,
gott er annars
víti at hafa fyr varnaði.

20. Svá hánum gafsk
Sörla hinum góðráða,
þá er hann flýði á vald hans Vígólfs;
tryggliga hann trúði,
en hinn at tálum varð,
sínum bróðurbana.

21. Grið hann þeim seldi
af góðum hug,
en þeir hétu hánum gulli í gegn;
sáttir létusk,
meðan saman drukku,
en þó kómu flærðir fram.

22. En þá eptir
á öðrum degi,
er þeir höfðu í Rýgjardal riðit,
sverðum þeir meiddu
þann er saklauss var,
ok létu hans fjörvi farit.

23. Lík hans þeir drógu
á leynigötu,
ok brytjuðu í brunn niðr;
dylja þeir vildu,
en dróttinn sá
heilagr himnum af.

24. Sál hans bað
hinn sanni guð
í sinn fögnuð fara;
sökudólgar, hygg ek,
síðla muni
kallaðir frá kvölum.

———

25. Dísir bið þú þér
dróttins mála
vera hollar í hugum;
viku eptir
mun þér vilja þíns
alt at auðnu ganga.

26. Reiðiverk,
þau þú vunnit hefir,
bœt þú eigi illu yfir;
grættan gala skaltu
með góðum hlutum;
þat kveða sálu sama.

27. Á guð skal heita
til góðra hluta,
þann er hefir skatna skapat;
mjök fyrir verðr
manna hverr,
er seint finna föður.

28. Æstanda þikkir
einkum vandliga,
þess er þikkir vant vera;
alls án verðr
sá er enskis biðr,
fár hyggr þegjanda þörf.

29. Síðla ek kom,
snemma kallaðr,
til dómvalds dyra;
þangat ek ætlumk,
því mér heitit var,
sá hefir krás er krefr.

30. Syndir því valda,
at vér hryggvir förum

œgisheimi or;
engi óttask
nema ilt göri,
gott er vammalausum vera.
31. Úlfum líkir
þikkja allir þeir,
sem eiga hverfan hug;
svá mun gefask
þeim er ganga skal
þær inar glœddu götur.
32. Vinsamlig ráð
ok viti bundin
kenni ek þér sjau saman;
görla þú nem,
ok glata aldregi,
öll eru þau nýt at nema.

---

33. Frá því er at segja,
hve sæll ek var
œgisheimi í;
ok hinu öðru,
hve ýta synir
verða nauðgir at nám.
34. Vil ok dul
tælir virða sonu,
þá er fíkjask á fé;
ljósir aurar
verða at löngum trega,
margan hefir auðr apat.
35. Glaðr at mörgu
þótta ek gumnum vera,
þvíat ek vissa fátt fyrir;
dvalarheim
hefir dróttinn skapat
munafullan mjök.
36. Lútr ek sat,
lengi ek hölluðumk,
mjök var ek þá lystr at lifa;
en sá réð
sem ríkr var;
fram eru feigs götur.
37. Heljar reip
kómu harðliga
sveigð at síðum mér;
slíta ek vilda,
en þau sterk váru,
létt er lauss at fara.
38. Einn ek vissa,
hversu alla vega
sullu sútir mér;
Heljar meyjar
mér hrolla buðu
heim á hverju kveldi.
39. Sól ek sá
sanna dagstjörnu
drúpa dynheimum í;
en Heljar grind
heyrða ek á annan veg
þjóta þungliga.
40. Sól ek sá
setta dreyrstöfum,
mjök var ek þá or heimi hallr;
máttug hon leizk
á marga vegu
frá því sem fyrri var.
41. Sól ek sá,
svá þótti mér,
sem ek sæja göfgan guð;

henni ek laut
hinzta sinni
aldaheimi í.
42. Sól ek sá,
svá hon geislaði,
at ek þóttumk vætki vita;
en Gjallar straumar
grenjuðu annan veg,
blandnir mjök við blóð.
43. Sól ek sá
á sjónum skjálfandi
hræzlufullr ok hnipinn;
þvíat hjarta mitt
var heldr mjök
runnit sundr í siga.
44. Sól ek sá
sjaldan hryggvari,
mjök var ek þá or heimi hallr;
tunga mín
var til trés metin,
ok kólnat at fyr utan.
45. Sól ek sá
síðan aldregi
eptir þann dapra dag,
þvíat fjallavötn luktusk
fyr mér saman,
en ek hvarf kallaðr frá kvölum.
46. Vánarstjarna flaug,
þá var ek fœddr,
brot frá brjósti mér;
hátt at hon fló,
hvergi settisk,
svá at hon mætti hvíld hafa.
47. Öllum lengri
var sú eina nótt,
er ek lá stirðr á strám;
þá merkir
þat guðmæli:
maðr er moldu samr.
48. Virði þat ok viti
sá inn virki guð,
er skóp hauðr ok himin,
hversu einmana
margir fara,
þó við skylda skyli.
49. Sinna verka
nýtr seggja hverr;
sæll er sá er gott görir;
auði frá
er mér ætluð var
sandi orpin sæng.
50. Hörundar hungr
tælir hölda opt,
hann hefir margr til mikinn;
lauga vatn
er mér leiðast var
eitt allra hluta.
51. Á norna stóli
sat ek níu daga,
þaðan var ek á hest hafinn;
gýgjar sól
er skein grimmliga
or skýdrúpnis skýjum.
52. Utan ok innan
þóttumk ek alla fara
sigrheima sjau;
uppi ok niðri
leitaða ek œðra vegar,

hvar mér væri greiðastar götur.

---

53. Frá því er at segja,
hvat ek fyrst um sá,
þá ek var í kvölheima kominn:
sviðnir fuglar,
er sálir váru,
flugu svá margir sem mý.
54. Vestan sá ek fljúga
vánar dreka,
ok féll á glævalds götu;
vængi þeir skóku,
svá víða mér þótti
springa hauðr ok himinn.
55. Sólar hjört leit ek
sunnan fara,
hann teymdu tveir saman;
fœtr hans
stóðu foldu á,
en tóku horn til himins.
56. Norðan sá ek ríða
niðja sonu,
ok váru sjau saman;
hornum fullum drukku þeir
hinn hreina mjöð
or brunni baugregins.
57. Vindr þagði,
vötn stöðvaði,
þá heyrða ek grimmligan gný;
sínum mönnum
svipvísar konur
mólu mold til matar.
58. Dreyrga steina
þær hinar dökkvu konur
drógu daprliga;
blóðug hjörtu héngu þeim
fyr brjósti utan,
mœdd með miklum trega.
59. Margan mann sá ek
meiddan fara
á þeim glœddu götum;
andlit þeirra
þóttu mér öll vera
rýgjar blóði roðin.
60. Marga menn sá ek
moldar gengna,
þá er eigi máttu þjónustu ná;
heiðnar stjörnur stóðu
yfir höfði þeim
fáðar feiknstöfum.
61. Menn sá ek þá,
er mjök ala
öfund um annars hagi;
blóðgar rúnir
váru á brjósti þeim
merktar meinliga.
62. Menn sá ek þar
marga ófegna,
þeir váru villir vega;
þat kaupir sá,
er þessa heims
apask at óheillum.
63. Menn sá ek þá,
er mörgum hlutum
vældu um annars eign;
flokkum þeir fóru
til fégjarns borgar,
ok höfðu byrðar af blýi.

64. Menn sá ek þá,
er margan höfðu
fé ok fjörvi rænt;
brjóst í gegnum
rendu brögnum þeim
öflgir eitrdrekar.
65. Menn sá ek þá,
er minst vildu
halda helga daga;
hendr þeirra váru
á heitum steinum
negldar nauðliga.
66. Menn sá ek þá,
er af mikillæti
virðusk vánum framar;
klæði þeirra
váru kynliga
eldi um slegin.
67. Menn sá ek þá,
er mart höfðu
orð á annan logit;
heljar hrafnar
or höfði þeim
harðliga sjónir slitu.
68. Allar ógnir
fær þú eigi vitat,
þær sem helgengnir hafa;
sœtar syndir verða
at sárum bótum;
æ koma mein eptir munuð.

---

69. Menn sá ek þá,
er mart höfðu
gefit at guðs lögum;
hreinir kyndlar váru
yfir höfði þeim
brendir bjartliga.
70. Menn sá ek þá,
er af miklum hug
veittu fátœkum frama;
lásu englar
helgar bœkr
yfir höfði þeim.
71. Menn sá ek þá,
er mjök höfðu
hungri farit hörund;
englar guðs
lutu öllum þeim;
þat er œzta unað.
72. Menn sá ek þá,
er móður höfðu
látit mat í munn;
hvílur þeirra váru
á himingeislum
hafðar hagliga.
73. Helgar meyjar
höfðu hreinliga
sál af syndum þvegit
manna þeirra,
er á mörgum degi
pína sjálfa sik.
74. Hávar reiðir sá ek
með himnum fara,
þær eiga götur til guðs;
menn þeim stýra,
er myrðir eru
alls fyr öngvar sakir.
75. Hinn máttki faðir!

mesti sonr!
heilagr andi himins!
þik bið ek skilja,
er skapat hefir,
oss alla eymdum frá.

---

76. Bjúgvör ok Listvör
sitja í Herðis dyrum
Organs stóli á;
járna dreyri
fellr or nösum þeim,
sá vekr fjón með fírum.
77. Óðins kván
rœr á jarðar skipi,
móðug á munað;
seglum hennar
verðr síð hlaðit,
þeim er á þráreipum þruma.
78. Arfi! faðir
einn þér ráðit hefi,
ok þeir Sólkötlu synir,
hjartar horn,
þat er or haugi bar
hinn vitri Vígdvalinn.
79. Hér 'ro rúnir,
er ristit hafa
Njarðar dœtr níu;
Ráðvör hin elzta,
ok Kreppvör hin yngsta,
ok þeirra systr sjau.
80. Hverju þeir
hafa belt
Svafr ok Svafrlogi!
blóð þeir vöktu
ok benjar sugu
undir öllum eyvana.
81. Kvæði þetta,
er ek þér kent hefi,
skaltu fyr kvikum kveða:
Sólarljóð,
er sýnask munu
minst at mörgu login.
82. Hér vit skiljumk,
ok hittask munum
á feginsdegi fíra;
dróttinn minn
gefi dauðum ró,
hinum líkn er lifa!
83. Dásamligt frœði
var þér í draumi kveðit,
en þú sátt it sanna;
fyrða engi var
svá fróðr um skapaðr,
er áðr heyrði Sólarljóðs sögu.

# HARALDSMÁL

1. Hlýði hringberendr
meðan ek frá Haraldi segi
odda íþróttir
inum afarauðga!
Frá málum mun ek segja
þeim, er ek mey heyrða
hvíta, haddbjarta,
er við hrafn rœddi.
2. Víg þóttisk valkyrja,
værar né váru,
þekk er þó in fránleita
er fuglsrödd kunni;
kvaddi hin glögghvarma
ok hin kverkhvíta
Hýmis hausreyta,
er sat á horni bjarga.
3. „Hvat er yðr, hrafnar!
hvaðan erut þér komnir
með dreyrgu nefi
at degi öndverðum?
hold loðir yðr í klóm,
hræs þefr gengr or munni,
nær hygg ek yðr í nótt bjoggu
því er vissut nái liggja.“
4. Hreyfðisk hinn hausfjaðri,
ok um hyrnu þerði
arnar eiðbróðir,
ok at andsvörum hugði:
„Haraldi vér fylgðum
syni Hálfdanar,
ungum eðlingi,
síz or eggi kómum.“
5. „Kunna hugðak þik konung mundu
þanns á Kvinnum býr,
dróttin Norðmanna;
djúpum ræðr hann kjölum,
roðnum röndum,
rauðum skjöldum,
tjörgum árum,
tjöldum drifnum.“
6. „Úti vill jól drekka,
ef skal einn ráða,
fylkir hinn framlyndi,
ok Freys leik heyja.
Ungr leiddisk eldvelli
ok inni sitja,
varma dyngju

eða vöttu dúnsfulla.“

Str. 1—6: Fagrsk. p. 3—4
Str. 6: Hkr. III, k. 16.

7. „Heyrðir þú í Hafrsfirði
hve hraustliga barðisk
konungr hinn kynstóri
við Kjötva hinn auðga?
knerrir kómu austan,
kapps of lystir,
með gínandum höfðum
ok gröfnum tinglum.

8. Hlaðnir váru þeir haulda
ok hvítra skjalda,
vigra vestrœnna
ok valskra sverða.
Grenjuðu berserkir,
Guðr var þeim á sinnum;
emjuðu úlfheðnar
ok ísarn gullu.

9. Freistuðu hins framráða,
er þeim flýja kendi,
allvalds austmanna,
er býr á Útsteini;
stöðum nökkva brá stillir
er hánum var styrjar væni;
hlömmun var á hlífum
áðr Haklangr félli.

10. Leiddisk þá fyrir Lúfu
landi at halda,
hilmi hinum hálsdigra,
hólm lét sér at skildi;
slógusk und sessþiljur,
er sárir váru,
létu upp stjölu stúpa,
stungu í kjöl höfðum.

11. Á baki létu blíkja
— barðir váru grjóti —
Svafnis salnæfrar
seggir hyggjandi. (SE., I, p. 34.)
Œstusk auðkylfur
ok of Jaðar hljópu
heim or Hafrsfirði
ok hugðu á mjöðdrykkju.“

Str. 7—11: Fagrsk. p. 8—9
Hkr. III, k. 19, Fms. X, p. 190—191.

12. „Valr lá þar á sandi
vítt inum eineygja
Friggjar faðmbyggvi,
fögnuðum dáð slíkri.“

Str. 12: SE. I, p. 236.

13. „Annat skulu þeir eiga,
ambáttir Ragnhildar,
dísir dramblátar!
at drykkjumálum,
en þér sét hergaupur
er Haraldr hafi sveltar
valdreyrgar,
en vera þeirra bræði.“

Str. 13: Fms. X, p. 194.

14. „Hafnaði hann Hólmrýgja
ok Hörða meyjum,
hverri hinni heinversku
ok Hölga ættar,
konungr hinn kynstóri
er tók konuna dönsku.“

Str. 14: Fms. X, p. 195
Hkr. III, k. 21, Fms. I, p. 7.

*Valkyrja:*

15. Hversu er fégjöfull,
þeim er fold verja,
ítra ógnflýtir
við íþróttarmenn sína?

*Hrafn:*

16. Mjök eru reyfðir
rógbirtingar,
þeirs í Haralds túni
húnum verpa;
fé eru þeir gœddir
ok fögrum mækum,
málmi húnlenzkum
ok mani austrœnu.

17. Þá eru þeir reifir
er vita rómu væni,
örvir upp at hlaupa
ok árar at sveigja,
hömlur at brjóta
en hái at slíta,
ríkuliga hygg ek þá vörru þeysa
at vísa ráði.

*Valkyrja:*

18. At skálda reiðu vil ek þik spyrja,
alls þú þykkisk skil vita;
greppa ferðir
er þú munt görla kunna
þeirra er með Haraldi hafask.

*Hrafn:*

19. Á gerðum sér þeirra
ok á gullbaugum,
at þeir eru í kunnleikum við konung;
feldum ráða þeir rauðum
ok fagrrönduðum,
sverðum silfrvöfðum,
serkjum hringofnum,
gyltum andfetlum
ok gröfnum hjálmum,
hringum handbærum
er þeim Haraldr valdi.

*Valkyrja:*

20. At berserkja reiðu vil ek þik spyrja,
bergir hræsæfar!
hversu þér fagnið
þeim er í fólk vaða,
vígdjörfum verum?

*Hrafn:*

21. Úlfheðnar heita
þeir er í orrostum
blóðgar randir bera,
vigrar rjóða,
er til vígs koma;
þeim er þar sýst saman.
Áræðismönnum einum
hygg ek þar hœfa at standa,
þá er skatnar skilvísir
í skjöld höggva. (Fms. X, p. 179.)

*Valkyrja:*

22. At leikurum ok trúðum
hefik þik lítt fregit;
hver er örgan
þeirra Andaðar
at húsum Haralds?

*Hrafn:*

23. At hundi elskar Andaðr
ok heimsku drýgir,
eyrnalausum,
ok jöfur hlœgir.

24. Hinir eru ok aðrir
er of eld skulu
brennanda spán bera,
logandum húfum
hafa sér und linda drepit:
hældræpir halir.

Str. 15—24: Fagrsk. p. 4—6.

# EIRÍKSMÁL

*Óðinn:*

1. Hvat er þat drauma?
Ek hugðumk fyr dag rísa,
Valhöll ryðja
fyr vegnu fólki,
vekta ek einherja,
bæða ek upprísa,
bekki at strá,
bjórker leyðra,
Valkyrjur vín bera,
sem vísi komi — (SE. I, p. 240.)
erumk or heimi
haulda vánir,
göfugra nakkvarra,
svá er mér glatt hjarta!

2. Hvat þrymr þar, Bragi,
sem þúsund bifisk
eða mengi til mikit?

*Bragi:*

Braka öll bekkþili,
sem muni Baldr koma
aptr í Óðins sali.

*Óðinn:*

3. Heimsku mæla skalattu,
hinn horski Bragi,
þvíat þú vel hvat vitir;
fyr Eiríki glymr,
er hér mun inn koma
jöfurr í Óðins sali.

4. Sigmundr ok Sinfjötli!
rísit snarliga
ok gangit ígegn grami;
inn þú bjóð
ef Eiríkr sé,

hans er mér nú ván vituð!

*Sigmundr:*

5. Hví er þér Eiríks ván
heldr en annarra konunga?

*Óðinn:*

Því at mörgu landi
hann hefir mæki roðit
ok blóðugt sverð borit.

*Sigmundr:*

6. Hví namtu hann sigri,
þá er þér þótti hann snjallr vera?

*Óðinn:*

Því at úvíst
er at vita,
sér úlfr inn hösvi á sjöt goða.

*Sigmundr:*

7. Heill þú nú, Eiríkr!
vel skaltu hér kominn
ok gakk í höll, horskr!
hins vil ek þik fregna:
hvat fylgr þér
jöfra frá eggþrimu?

*Eiríkr:*

8. Konungar eru fimm,
kenni ek þér nafn allra;
ek em hinn setti sjálfr . . . .

Str. 1—8: Fagrsk. p. 16—17.

# HÁKONARMÁL

1. Göndul ok Skögul
sendi Gautatýr
at kjósa of konunga;
hverr Yngva ættar
skyldi með Óðni fara,
ok í Valhöllu vera.

2. Bróður fundu þær Bjarnar
í brynju fara,
konung hinn kostsama
kominn und gunnfána:
drúptu dólgar,
en darraðr hristisk,
upp var þá hildr um hafið.

3. Hét á Háleygi
sem á Hólmrýgi,
jarla einbani
fór til orrostu;
gott hafði inn gjöfli
gengi Norðmanna,
œgir Eydana

stóð und árhjálmi.
4. Hrauzk or herváðum,
hratt á völl brynju,
vísi verðungar
áðr til vígs tœki;
lék við ljóðmögu,
skyldi land verja,
gramr hinn glaðværi
stóð und gullhjálmi.
5. Svá beit þá sverð
or siklings hendi
váðir Váfaðar
sem í vatn brygði;
brökuðu broddar,
brotnuðu skildir,
glömruðu glymhringar
í gotna hausum.
6. Tröddusk törgur
fyrir Týs ok bauga
hjalta harðfótum
hausar Norðmanna:
róma varð í eyju,
ruðu fírar margir
skírar skjaldborgir
í skatna blóði.
7. Brunnu beneldar
í blóðgum undum,
lutu langbarðar
at lýða fjörvi,
svarraði sárgýmir
á sverðanesi,
féll flóð fleina
í fjöru Storðar.
8. Bléndusk við roðnar
und randar himni,
Sköglar veðr léku
við skýs um bauga,
umdu oddlár
í Óðins veðri,
hné mart manna
fyr mækis straumi.
9. Sátu þá döglingar
með sverð of togin,
með skarða skjöldu
ok skotnar brynjur:
vara sá herr
í hugum
er átti til Valhallar vega.
10. Göndul þat mælti:
— studdisk geirskapti —
„Vex nú gengi goða,
er Hákoni hafa,
með her mikinn,
heim bönd of boðit.“
11. Vísi þat heyrði,
hvat valkyrjur mæltu,
mærar, af mars baki:
hyggiliga létu
ok hjálmaðar sátu
ok höfðusk hlífar fyrir.
12. „Hví þú svá gunni
skiptir, Geirskögul?
várum þó verðir gagns frá goðum?“
„Vér því völdum
er þú velli hélzt,
en þínir fjándr flugu!“
13. „Ríða vit skulum“

